# Búa-Løg

edur

## Verdlág fornt og nytt á fle-
## stum þeim hlutum, sem sel-
## iaz og kavpaz á Íslande,

med

## Reglum
### um islendskañ buuskap.

Item

## Alþingis-Samþyckt
### um Lavsameñ, Viñumeñ og Lavsgángara.

Til fródleiks og leidarvísers fyrer almúga.

Seliaz óiñbundin 24 skildíngum.

---

Prentud ad Hrappsey, í því nýa konúngl. privilegerada bókþryckerie 1775, af Eyrike Gudmundssyne Hoff.



# Goodfuusum Lesara.



ad er nær þvi eins naudsynlegt ad vita verd hlutanna, eins og ad vita þeirra vigt og mæler; þvi vigt og mæler þióna under verdid, hvarepter þad verdur greinelega áqveded. Nú er mæler med tvennu móte: annar sá **nátturlege**, annar sá **loglege**. Þann **nátturlega** brúka ennnú margar ville-þióder: so kaupa Blámennirner í Afríka salt fyrer gull, og mæla hvorttveggia í hrúgum jafnstórum, salt og gull-sand. Sá **loglege** mæler er vidtekeñ og algengeñ hiá aullum sidudum þiodum, og nærre þvi so margbreittur

sem þióðirnar eru margar. Verðið á hlutunum er ei síður margbreitt; og kañ líka að adgreinaz í nátturlegt og loglegt. Það fyrra grundar sig á girnd kaupandans og gagnseme hlutarins, sem best sez á mat í húngurs nauð; hitt grundaz á logunum. Þetta verð skorðuðu þeir gaumlu við þá hlute, sem í siálfu landinu voru með erviðe og forstande tilbúner og framleidder, við vaðmáls álner og kýr. Þetta voru það helstu gæðe sem landið af sér gaf: sauðurinn, af hvörs ullu vaðmálið giorðiz, hvarmeð þeir mest keyptu nauðsyn sína af auðrum þióðum; og kýrin, sem þeir hausdu mat og forsorgun af. Epter þessu settu þeir verð á silfrið og gullið, sem þeir letu vera miklu dýrra, enn það er nú. Í þess stað er nú á daugum skorðað við silfur og gull verð allra añara hluta; og er nú helmínge óðýrra, enn það var í fyrndinne. Fornmenn skauðuðu verð hlutanna epter þeim bestu og mestu landsins gæðum, enn ei epter þessum fagra málme, jafnvel þó þeir hann hefðu. Og látum vera, að silfur og gull hafe þá verið minna enn það er nú, sem þó er óvíst,

víst, hvad Ísland áhrærer; samt hefdu þeir þarvid getad verd ſhlutanna ſkordad, hefdu þeir ei haft annann tilgáng; því ad ætla, ad þeir epterþánkalaust og af hendíngu hafe útvaled kýr og vadmál til ad ſkamta verd annarra hluta, þad er óvirdulegt; og má ei eigna þeim gódu og vitru maunnum þvílíka glópſku. Hitt er líklegt, ad þeir hafe halded þad þena til landsins blómgunar og velferdar, ad láta landsins beſtu og meſtu gæde ráda verde hlutanna, og þótt þad hollara, ad almúge fenge 1 ſmior-fiórdúng fyrer eyrer edur 6 al. hellsduren 1 rixort ſpecie í peníngum. Víſt er þad, og af vitrum og ſtórum maunnum ſannad i audrum laundum, ad ſú þiód er miklu ríkare og mektugre til ad forſvara ſig, ſem hefur gnægd af matvælum og audrum til líkamans uppeldis egenlega naudſynlegum hlutum, þó hún hafe litla, og kannſke aungva penínga; helldur enn ſú, ſem hefur gnógt af gulle og ſilfre, enn ſveltur ad mat. Og margfaulld reynſla hefur ſýnt þad, ad mikler peníngar hiá almúga leida ei ſo gott epter ſig. Þar á móte hefur þad fólk alltíd blómlegt vered,

 ſem

sem hefur haft nægt í búe og yferfliótanlegt af því, sem heyrer til líkamans uppeldis; því soddan hluter geta aldrei mikler vered, utan þar sem er ervide, þrifnadur og hófseme. Og hvar sem er miked til af þessum hlutum, þar gánga þeir maña á medal med litlu verde, sem er hid allra heilnæmasta lands-fólkinu. Af haundlun vid adrar þióder getur eitt fólk orded ríkt og megtugt um stund og tíma. Enn þá aller vid haundlunina hafa fenged miked gull og silfur, þá er ríkdómur og magt faren, hvar í stadin kemr óhóf og lete, sultr og seyra. Þad var þarfyrer ecke gull og silfr sem giorde vora forfedur so ríka og mektuga; þad var gnægt af kúm og ám, hvar af þeir uppólu fiølda med ervide og forstande; því vedráttu, hardindum og landplágum máttu þeir sæta ei sídr enn ver. Ei ad sídr var allt þad, sem var naudsynlegt til líkamans uppeldis, hiá þeim med miked gódu verde, sem siá má af þeim gaumlu Bunaløgum, sem híngad og þángad slækiaz skrifud, enn nú koma lesaranum þryckt fyrer siöner. Hvor þad hefr samaiikeked [því avdsiáanlegt er, ad

þad

það epter fleirum eru samanteken] er óvíst. Sumer eigna það þeim nafnfræga vitra manne Pále logmanne Wídalín; hvað þó má miked þykia, því í þeim er sumt, sem ei sýniz geta heimkomiz. Enn bæde má vera, að það sem epter var þryckt hafe vered rángfært af skrifurunum frá því sem Páll let það vera [ef hann annars hefr það samanteked], edr hann hafe ei viliað brjála því, sem hann hefr funded gamallt fyrer ser, jafnvel þó ei sýndiz so vidkunnanlegt; fyrerþví að bæde mismunar verd hlutanna epter tímunum og lands-plátsunum; so að það sem oss sýniz nú ósanngiarnt, kann hafa sannsýnelegt halded vered á fyrre tímum edr í andrum heraudum. Og þetta er orsaukin, hvarfyrer þesse **Buualog** eru þryckt eins og það hafa í hendur boriz. **Buualog** ein, á pappír skrifuð epter kálfskiñs-bók af góðum og adgætnum skrifara, voru líka við hondina, og úr þeim innfært, það sem það hanfdu nockud frábrugded, og tilvísað í upphafe línu med þessu merke *. Enn það merke er sett aptanvið þar sem hvorutveggiu bar saman. Þesse **Buualog** eru þryckt ei

 einasta

einásta almúga til leidarvísers, og er margt af því úr siálfum logunum teked, sem í þeim stendr, heldr og til fródleiks; því af þeim má siá, hvorsu verd margra þarfleguſtu hluta er uppstíged á þessum daugum, sem mætte sýnaz víst merke landsins fátæktar og fordiaurfunar; því bágt mun ad bevísa, ad peníngar séu nú fleire í landinu, enn þeir voru fyrer 100 árum. Af þeim má og siá, hvorsu fólke er apturfared ad eliun edr dugnade, edr hvorutveggia, einnen rádvendne. Þad sýna áqvædis verkin og mat-veitíngar, Til eru þeir húsbændur, sem hallda aullu í peninga, enn svellta fólk sitt ad mat, og sem til alls tala vid fólkid med þióste og úlfúd; hvorttveggia er illt, enda eru þvílíker húsbændur miog fáer. Hiner eru miklu fleire, sem láta fólkid gánga í aullu siálfræde þaurfum framar; því satt er þad, ad allr fiolde vinnufólks er nú orded so vanſidad, ad þad þoler lítenn epterrekſtur, og fer úr viſtinne jafnvel fyrer ſkickanlegt og navdſynlegt adhald. Hafmatar veitíngar voru allar tilforna ſkamtadar vid ſkir. Nú hafa ſæſter húſbændur efne á

því

þvî; þó eru dæmin, ad þar sem skír er veitt í sífelln, þar þykiz fólk ei geta vid vered fyrer skír=leida. Og þar sem gefed er vetrar smiör vid, leggia sumer mathákar þad ad jausnu vid klakann úr lækznum, ad eg tale ei um kál=mat edr lettmete. Hvad verkum fólks viddvíkr, þá er þad ei betra; til forna heldu bændur upp tún=gaurdum sínum, og þá átte vinnumadrinn ad hlada 5 fadma á dag; nú halda menn varla uppe heý=gaurdum edr bæar=húsum; og ef vinnumenn eiga ad þióna ad slíkum naudsýnia torfverkum, fara þeir úr vistinne; og vilia þó hafa árlega avk vadmáls hundrad í kavp, og leggia nú þó minna upp enn vinnumenn til forna, sem ei fengu utan 10 avra. Alla varmeñsku slíka ad upptelia her vilde verda mikels til ófláugt. Enda er þetta ei heldr til allra meint; þvî enn nú gefaz nockur viñuhiú hlýden, ervidissaum og rádvaund. Enda má þad og siá á þeim saumu, þá þav siálf fara ad búa, vid hvor alltíd framkoma Guds fyrerheit, sem aldrei kunna ad bregdaz; hiner uppskera og flester áverte lete og ódygdar, sem hana hafa sýnt

sínum húsbændum. Til fródleiks er her og aptanvid þesse **Buualög** þryckt **Alþingis-Samþyckt,** sú sem giord var Anno 1722. um lavsamenn, vinnuhiú og lavsgángara. Enn þad sídasta, um **giptíngar selavsra omenstumanna,** er her med vilia undanfellt um siñ; enn muu sídar þryckt verda og eptertakanlega umtalad. Þvi so sem mestu og bestu menn landsins, bæde andlegrar og veraldlegrar stettar, hafa í þá daga halded slíkar giptíngar fyrer hina mestu landsins ógæfu; þá er þad ei sídr nú. Til ad afstýra margfaldre slíkre órádvendne hafa maurg medaul vered uppþeinkt, enn eingen samt miklu til leidar komed. Vildu menn breita epter þeim vitru Kínurum, munde þetta þó meiga takaz, nefnelega ef þeir, sem ad hreckvísre órádvendne yrde kunner, være skrifader í greinelegt registur, og sá sedell hengdur á kyrkiu-hurdina, alltíd þá embættad være, munde fólk ser miklu fyrr framtaka, enn þó þad være dæmt í penínga-bætur; og eckert medal munde so kraustugt, sem þetta. Gud gæfe, ad sem flester vildu betra sig þravtalavst.






# Buua-løg

*I. Cap.*

## Vor-lag a Navtpening.



Kýr ad aullu sem løg ski-pa, i Far-daugum = = = C al. I.

(Annarstadar: Kýr 8 vet-ra gaumul, og ei ýng-re enn ad audrum kálfe [ↄ: hafe bored 2 kálfa], heil og heilspenud, og hafe bored um vetrinn epter Páls-messu, ei verre en medal kýr ad vexte og nyt, herads-ræk.)

Geld-miólk kýr = = 108.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Kýr þrísþen = = | | 108. |
| Qvíga ad fyrsta kálfe eins | | 108. |
| Kýr geld, þridiúnge verre kú = = = | | 80. |
| Qvíga tvævetur mylk, er haldin = = | | 72. |
| Sóu-alenn kálfur = | | 20. |
| Vetrgamallt navt, þridiúngr kúgildis = = | | 40. |
| Tvævett = = | | 60. |
| Þrevetr uxe, jafn geldre kú | | 80. |
| Fiögravetra, vid kú | I. | |
| Fimvetra, þridiúngr annars kúgildis = = | I. | 40. |
| Sexvetra = = | I. | 80. |
| Siövetra og elldre uxe | 2. | |
| Alen edr eygengen navt og ardur uxe epter samkomulage. | | |

## II. Cap. Havst-lag a Navtpeninge.

Kýr, sem á vor er C. er fódurlaus á havst | 80.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Kýr geld-miólk = | | 90. |
| Qvíga þrevetr mylk = | | 90. |
| Geld = | | 80. |
| Vetrgamallt navt edr qvíga 50 al. Adrer segia | | 48. |
| Tvævett navt edr qvíga 10 avrum. Sumer segia | | 80. |
| Þrevetr uxe edr geld kýr | I | |
| Fiogravetra uxe C og 6 avrum edr = = | I. | 40. |
| Fim̃vetra C og 60 al. edr | I. | 80. |
| Sexvetra og eldre, allt lagnevte C og 100 al. edr | 2. | |
| (Aunnur Búa-løg segia; navt siovetra 2 hundrud) | | |
| Kálfar epter samninge. | | |
| * Nýborenn kálfur undan roskenne kú = = | | 6. |

## III. Cap.
## Vorlag a Savdfe og Geitfe.

| | C | al. |
|---|---|---|
| 6 ær, 2 tvævetrar, hinar ei elldre enn 6 vetra | I. | |
| Þær seu í al-ullu og fæde laumb, er þá hvor þeirra | | 20. |

*Hálf

| | C | al. |
|---|---|---|
| *Hálf fiórtánda alen er ær roſken, ullarlavs, med lambe. (Annarſtadar: ær lamblavs mylk 17½ al. eins ær ullarlavs, og mun hún þá eiga ad vera med lambe.) | | |
| 7 Lambs-gotur geldar = | I. | |
| 8 Ær al-geldar þrevetrar og eldre, hvørein 15 al. Allar = = | I. | |
| 8 Lambgimbrar, ſem fæda | I. | |
| 8 Geldíngar tvævetrer | I. | |
| 6 Geldíngar þrevetrer | I. | |
| Fiøgravetra geldíngr 25 al. Þá eru 5 fyrer - | I. | 5. |
| Hrútr í ullu tvævetr vid á (Annarſtadar: hañ er 18 al. og ullarlavs 15 al.) | | 20. |
| 12 Savder vetrgamler = | I. | |
| Geldíngr hvør ullarlavs er 8 al. Sum B. l. ſegia | | 10. |
| Í ullu 10 al. | | 12. |

Aunnur

C al.

Aunnur B. l. hrútr vetr-gamall ullarlaus 10 al.
Item: ullarlaus lambgimbur, sem fæder, 14 al. enn mylk, ullarlaus og lamblaus, 12 al. Eins vetrgamall hrútr. Gaumul ær reiknaz í fardaugum 15 al. ef hún er í ullu, og fæder lamb sitt; enn ad havstlage er hún 10 al. Sum B. l. setia hana dýrra.
Gamal-ær er halden, þaa huun er 9 vetra og eldre.
*2 al. er ullar-reise af vetrgaumlum sauð., enn af ánne hálf þriðia alen.
Ullar-reise af gaumlum sauð ää ad vega 8 merkur. af tvævetrum 6 merkur

af

| | C | al. |
|---|---|---|
| Af vetrgaumlum 4 merkur er | | 2. |
| Lamb á fráfærum | | 3. |
| *Hálfum eyrer er steckiar-lamb. Fiórum álnum er fráfæringr | | |
| Forustu-savdr þrevetr og elldre er metse. | | |
| Geitur 6 med kidlíngum | 1. | |
| hvorein | | 20. |
| Hafr tvævetr | | 15. |
| Þrevetr | | 20. |
| Fiogravetra | | 25. |
| Elldre hafrar eru metse. | | |
| 12 vetrgamler geit-savder, hálft geldhafrar | 1. | |

*IV. C a p.*

## Havst-lag Savda og Geitfiar.

| | | |
|---|---|---|
|Ær 6 med laumbum | 1 | |
| An lambanna | | 90. |
| Hvorein afnáms-lavs ær | | 15. |
| Lambs-gotur 7 | | 105. |
| hvorein | | 15. |

Geld

| | C | al. |
|---|---|---|
| Geld ær | | 20. |
| Lamb-gimbur sialdan miña enn | | 15. |
| * 13 al. ullarlaus, 12 al. miólkur- og lamb-laus. | | |
| Geldíngr twævetur [* hálf mørk ɔ: 24 al.] | | 20. |
| þrevetr | | 25. |
| fiogravetra og eldre | | 30. |
| vetrgamall | | 15. |
| Haust-lamb optast | | 5. |
| Hid vænsta, eyrer ɔ: 6 al. og vege nætr-sol-ted hálf-vætt. | | |
| Aunnur B. l. haust-lamb er verdt epter þok, sem mør er í þok ad marka tale. | | |
| Hrútr vetrgamall medal-saudr | | 15. |
| Aunnur B. l. hrútr hinn lakaste 15 al. og í medallage 17½ al. * 18 al. best 20 al. * 12 al. vetrgamall hrútr í | | |

| | C | al. |
|---|---|---|
| ullu, enn 10 al. ullarlaus. * 10 al. vetrgamall saudr í ullu, enn 8 al. ullarlaus. | | |
| Hrútur tvævetr minst 25 al. best = | | 27½ |
| Þrevetr = | | 30. |
| Geitfiár-verd er allt eins og saudfiár. | | |
| Þad er lagsaudr, sem hefur mørk med hvorre alen; so ad sá sem hefr 10 merkur, er 10 al. &c. Allañ mør skal til vega og lika garn-mør. | | |
| Gillta tvævetr og elldre med 9 grísum = | 1. | |

*V. Cap.*

## Hesta, Hunda og Katta verd.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Hestr fiogravetra til tíuvetra lastalaus = | I. | |
| Hross eins-gamallt = | | 90. |

Hestr

| | C | al. |
|---|---|---|
| Hestr þrevetr = | | 90. |
| Hross þrevett, tveir partar kúgildis = | | 80. |
| Hestr tvævetr 70 al. edr | | 72. |
| Hryssa tvævetr 48 | | 50. |
| Hestr vetrgamall 50 = | | 52. |
| Hryssa vetrgaumul = | | 35. |
| Gædingar og stód-hross med fyle, metse. | | |
| (Nú plaga menn ad kavpa og selia hross, epter sem þav eru væn til. Vetrgaumul fyrer 35 edur 40 al. Fola fyrer mørk edr 10 avra, epter sem þeir eru væner.) | | |
| Folauld á havst epter giørfugleik. | | |
| Hest-fyl 15, 20, 30, mest | | 40. |
| Mer-fyl = = = mest | | 30. |
| Hundr dýr-tækr = = | I | |
| Smala-hundr = = | | 60. |
| Dýr-kottr = = | | 30. |

VI. Cap.

Verd-lag aa friidu aptr

| Fornu edr þeſſ upp=boot. | C | al. |
|---|---|---|
| Kýr 9 vetra uppbætiz 3 al. 10 vetra | - | 6. |
| Þá eyrer árlega; ſo ſem 11 vetra upp=bætiz hún 12 al. ꝛc. 19 edr 20 vetra uppbætiz hún | - | 60. |
| Aunnur B. l. Kýr er ſeinaſt í gilde 8 vetra. Ofaná 9 vetra er 1 eyrer, og ſo eyrer fyrer hvorn vetr upp frá þvi. | | |
| Gamal=kýr er ei meira á havſt enn | - | 60. |

(Ef leigulidar kavpa gamal=kýr á havſtin, og eingen er ſett aptr í fódur; þá borge kúna 10 avrum og fódrid 40 al. ellegar þeir ſvare aptr kúgilde; enn landsdrottinn bæte þeim þá til gaumlu kýrinnar 20 al. edr hálf=mørk,

edr

C al.

edr 5 avrum, epter ;
sem kýrin var slæm til.)

12 al. gialdaz fyrer kálf-
fang; enn ei skal leigu-
lide ábyrgiaz þó kýr fáe
ei, ef hann hefr grad-
úng med navtum sínum.
2 avrar liggia vid avga
og so vid horn og ha-
la á navte. 12 al.
koma ofaná þrí-spena
kú, og so ofaná 2 vetra
qvígu mylka.

Gamal-ær med lambe á
vor - - - 15.
á havst - - 20.

(Uppbót ofaná ásavdar-kúgil-
de hefr vered óviss og
mistavsn, almennast 20 al.
best 6 avrar. Skilríker
góder leigulidar hafa avng-
va heimt, og medkendt,
ad 6 ær væru so ágóda-
samar, ad þær bættu sig
siálfar upp. Forord-
níngin, sem skipar ad upp-

C al.

bæta kýr, getur eckert um uppbót á áſavdnum; hvad marger lands-drottnar hafa og brúkad fyrer áſtædu. Enn fleſter bændur, ſem ei eru miøg einþyckner, vilia heldr uppyngia áſavdar kúgildin, enn ad taka vid óhagvaunu.)

Heſtr edr hroſſ uppbætt 11 vetra - - 6.
og ſídan árlega, eyrer; verdur þá hundrads-heſtr tvítugr 10 avrum, og hroſſ 5 avrum.
10 avra heſtr edr hroſſ á vor, verdur á havſt Reiknaz þá háin 15 al. og líñd 15 al. 30.
Ogeltr heſtr, er mælt (þó ei í løgum), 12 al. lakare.
Nú er kalladr 5 avra munr á heſtum, ef annar er gelldr, annar ógelldr, þó løg legge þá jafna.

VII.

| | C | al. |
|---|---|---|
| *VII. Cap.* | | |
| **Hagverd at sumar.** | | |
| Fyrer vetrgamallt naut tvævett 2 al. &c. 6 vetra og elldra - - | | 1. 6. |
| Fyrer kú edr 6 ær - | | 3. |
| Med hvoriu lambe, sem aptrskilaz á haust - | | 1. |
| **A vetr.** | | |
| Fyrer hest edr hross til sumars, 3 vetra edr elldra, | | 6. |
| enn án þess ad kanna þá epter hrís - - | | 5. |
| se útegángr úrtauku-gódr | | 10. |
| Enn þetta er mikels til ofdýrt sinu-verd. | | |
| Frá sumar-málum til Þorláks-messu - - | | 5. |
| og þadan til vetrnátta í heima-lande - | | 5. |
| Fyrer roskenn savd, frá vetrnóttum til sumars í heima-landr | | 1. |

Kapall er mæltr í haga á vetr vid 30 savde í krafs.

C al.

Þad er mælt, ad gamall sëvdr gange kapal í hel.

Hage fyrer eina á um vetr 5 avrar koma á 20 savde frá vetrnóttum og til sumars, og þar til skæde sitt á hvorn sót, og líka skal gefa á hvoria 20, sem burt er komed; og ábyrgiz sá er tekr epter løgum. 1.

Aunnur B. l. segia: alin kemr under hvorn savd frá veturnóttum til sumars, fyrer geymslu, hús og haga, þar til einn gialdiz á hvorn tug; og ábyrgiz sá epter løgum, er vidtekr; enn ef sá leggr hrút til er geymer, þá koma 15 al. med 10 savdum, enn 5 avrar med 20; er þá gefen hálf aunnur alin med hvorre á. 7 avrar koma

б

C al.

á eitt hundrad á heid-lende, mörk á fiall-lende; 10 avrar á hundrad fiár; ef hann hýser sig siálfr; þrenn skæde á 20 kúgilde. Siá sídan Cap. 27.

VIII. Cap.

Hey-verd.

Mælehlass heys, kallad líka málfadmur [þad eru ad rettu 3 alner, sem nú ganga her á lande á hvorn veg, hæd, þickt og lengd]; og hafe í sér med rekna-klifium 7 málbands-hesta, þad eru 14 sextán-fiórdúnga-klifiar, edr 28 vætter, selz nú jafnlegast af taudu fyrer - - - 60.

Aunnur B. l. tveim maurk-um er mæle-hlass af taudu.

Utheys fadmr kostar - 30.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Taudu-vætt er þá vel - | | 2. |
| Enn úthenys vætt - | | 1. |

Aunnur B. l. Eyrer er vætt af grænne taudu tolfhrifitre.

* Málfadmr taudu er kúgilde til kaups. Hann á ad vera 3½ al. á hvorn veg. 5 mál-bands klifiar eiga ad leysaz úr málfadme, og rekinklifiar enar settu ad auk. Enn þá eru málbands klifiar 20 al. Málbands klifiar á ad binda medalmadr og medalkona í því reipe, sem hálfs þridia fadms er frá hvorre hauglð, og krókur á enda audrum enn hnesla á audrum, og tveggia handfanga berfsullinn. Málbands klifiar skulu vera 18 fiórdúngs vondlar, úr

| | | |
|---|---|---|
| hvorre klif. | C | al. |
| *Tólf merkur og 20 af taudu tvíhriſtre er alin. | | |
| J hardinda tíd ſelz málfadmr taudu fyrer - | I. | |
| Af lamb-gæfu heye - | | 72. |

Sá málfadmr ſkal hálfur vera högg-faſtr, enn hálfr dráttar-faſtr. Einar málbands kliſiar taudu reiknaz og ſeliaz 20 al. Pad eru málbands kliſiar, ad hvör klif vege 2 vætter edr 16 fiórdúngs vöndla. Pad eru málbands reipe, ſem 3 og hálfur fadmr er hvört tagl frá haugldum. Adrer ſegia: 2 og hálfur fadmr og dráttar-tagl ad auk, og ſilinn tvegg-ia handfanga, á audrum enda ſe krókr, enn audrum hneſla.

| | | |
|---|---|---|
| Taudu-kapall ſelz nú tídaſt. | | 10. |

(Eru þad almenner baggar, her um 10 fiórdúngar ad vigt; þó ſetia B. l. 32 merkur af tvíhriſtre taudu fyrer

| | C | al. |
|---|---|---|
| fyrer 1 al. Það segia 12 hesta í mæle-blasse; er þá hvør bagge 9 fiórdúngar og vel 12 merkur.) | | |

IX. C a p.

## Medgiafar diirleike.

| | |
|---|---|
| Med snemmbærre kú er eckert gefed edur - | 5. |
| Kýr, sem ber frá Allra-heilagra-messu til Jóla-faustu - - | 10. |
| Med Jóla-bærre kú - | 20. |
| Med Þorra-bærre - | 30. |
| Med þeirre, sem ber í mid-góe, [og er hún kaullud mál-bær] - | 40. |
| * Med kú til fódurs frá Mikials-messu og til Kross-messu á vor - - | 40. |
| Med þeirre, sem kálflaus verdr fyrer (epter) sumar-mál, og eins med þeirre, sem fer heim med kálf sinn, mørk o: 48 al. Sumer segia | 50. |

Hafe

Hafe annar kálf og nyt, er fódr - - 60.

(Enn þad er oflítel medgiauf í samburde vid hina, sem ádr er talen.)

Med vetrúnge, item med geldre qvígu, vetr-gaumlu navte og eins tvæ-vetru, med hvoriu um sig * 24 al. - 20.

Med þre-vetru navte hálf mork * 5 avrar, - 25.

Med fiogra-vetra-gaumlu og elldra - 40.

Med geld-miólkre kú - 30.

Eins med geldre (sumer segia: kelfdre) qvígu ad fyrsta kálfe - - 30.

Sá sem tekr fódr-pening skal ábyrg-iaz vid handvaum-mum aullum; hann skal fúlgu-fe fæda til Kross-messu á vor, og hitta hann er fe á, og bióda haunum ad taka

| | C | al. |
|---|---|---|
| við fe sínu, og sýne haunum að fært se, og sege haunum af sína á-byrgð under votta. Sá skal láta í fóður reka, er fe á; enn sá skal heim reka, sem elr. | | |
| Fúlga með 4 laumbum nú | | 20 |
| Enn í Jóns-bók var hún | | 12. |
| Sá skal ábyrgiast sem elr. Enn fiórðúngs-virde er gefeð með lambe fyrer gætslu og hey, ef sá ábyrgiz, er lamb á; enn hinn geyme sem sitt, og borge við megurð. | | |
| Það er mælt, að sá sem biargar einne á á vetrar-daginn, hann skule hafa í staðinn ull og miólk á sumre | | |
| Er-fóðr fæz valla fyrer - (Enn þá á hún ei að lifa á snunne einne úte.) | | 5. |

| | C | al. |
|---|---|---|
| 5 abra gefa menn, ad fódra ásavdar-kúgilde frá havste til vors. | | |
| Med folalde - - | | 20. |
| Besta hest=elde vid tvær kýr | I. | |
| Lakara epter samkomulage. | | |
| Af log-bók sýniz ad ráda, ad eins og í haga teliaz vid kú 10 savder roskner, eins se og um fódur, ef allann vetur til Fardaga eta - | | 60. |
| Enn 20 laumb, þó nú se audruvis. | | |
| Fódrtíme kúa 32 vikur, er fiórdúngs vondull á dag kýrgiauf, ef 28 vætter eru í málfadme. | | |
| Aunnur B. l. þad er mælt ad geld kýr hafe vondul á dag af nytgæfu heye, enn tvo vondla kú, er madr gefr til nytiar. | | |
| A viku kostar hey fyrer kú nær því - - | | 2. |
| | | X. |

X. Cap.

| | C | al. |
|---|---|---|
| **Geymslu-kaup buu-fiær.** | | |
| Heimrekstr á kú frá Fardaugum og til Mikials-messu | - | 3. |
| * Under kú á sumarid frá Fardaugum og til Mikials-messu, fyrer haga og heimrekstr, kemr eyrer | | |
| Fyrer óhag-vandt ásavdar kúgilde 6 al. edr | - | 5½. |
| Enn hag-vant ad vakta 4 al. edr | - | 3½. |
| Kú ad vakta frá vetre til sumars | - - | 4. |
| og stoda bolle í annad mál (þad mun skirmork) og besta kýr-nyt, fyrer utan brodd-miólk. | | |
| Enn fram̃ ad Fardaugum | | 5. |
| Ad geyma ad heidlende 2 ær um vetr. | - | 1. |
| Enn á slettlende 2 þumlúngum midr. A mýrlende | - - - | 1. |

Fim̃

C al.

Fim̃tán kúgilde optaſt ein ſkæde med hvoriu. Siá fyrer framan Cap. 7.
* Ad geyma 4 javde gamla, frá vetrnóttum og til ſumars, fyrer ábyrgd epter løgum er eyrer.

Grágás. Leigl. Þ. Þá leigulide ſkilr epter hey á jaurdu, og vill þar gefa láta, þá ſkal hann kavpa gætſlu á 10 kýr edr kúgilde 6 al. vadmáls, þeſſ er hæſt ſe til klæda; eñ landeigande ſkal fá húsrúm og gætſlu, enda ábyrgiz vid megre og vangætſlu.

## Nytkunar kavp.

Kú ad nytka í 4 daga er I.
Í þrítugnættann mánud 15.

(Enn þetta getur hvsrugt ſtadiz, og mun eiga vera 4 kýr ad nytka í 2 daga er 1 al. í þrítognættann mánud 15 al.

| | C | al. |
|---|---|---|
| 15 al. og er þó ofurdýrt, sem siá má af því sem fylger.) | | |
| Merkr-bolle af þickvu skire kemr á ad miólka 20 kýr á dag, 10 í hvort mál. Siá sídar 22. Cap. | | |
| Ær ad hýsa um vetr - | | ½. |
| Hrýtíngar verd á 4 ær | | ½. |

## XI. Cap.

## Leigu-hæd og dyrleike epter friidt.

| | | |
|---|---|---|
| Leiga epter kú, edr 6 ær, edr hest - | | 20. |
| Enn ad fornu 2 avrar - | | 12. |

(Anno 1544. dæmt á Hegg-staudum af Jóne s. Jóns syne og 6 maunnum laga á-vøxtr epter hvørt kúgilde: hálf vætt smiørs og tveir hlutar tunnu-skirs. Anno 1573. dæmt af Finnboga løgmanne: hálf-vætt smiørs, skir-tunna og fióru-tunna.)

Epter

| | C | al. |
|---|---|---|
| Epter 8 lamb-gimbrar 2 fiórd. smiørs ad fornu - | | 12. |
| Eins epter 7 mylkiur. | | |
| Epter á 6⅔ merkur smiørs ad fornu - - | | 2. |
| Epter hross (nema se hest-gilde) 9 al. nú á tím-um - - - | | 15. |
| Epter tvævetrann hest edr þrevett hross ad fornu eyrer nú - - | | 10. |
| Epter gield-miólka kú eyrer, nú - - | | 10. |
| Epter qvígu tvæ-vetra, sem vel miólkar - | | 10. |
| Þær optast byggdar á mat edr til ábyrgdar leigulaust. | | |
| Smiør-mørk á ad giøra kúgilde leigu-fært í medal haglende. | | |
| Gradúngs lán til einnar kýr á sumar - | | 1. |
| 2 taudu-vondlar umfram á vetur. | | |
| Fyrer hest-lán edr hross | | |

C 2

væns

C al.

vænst kross-messna á mille á dag edur Þíng-mannaleid - - I.

Um leigu-kyr og ær.

Kýr eiga ad miolka 2 merkur fyrer fódre, fyrer ábyrgd adrar 2 merkur, og fyrer leigu þridiu 2 merkur, til samans 6 merkur jaufnum miaultum. Enn þetta á ad skiliaz um þá kú, sem bored hefr unr vetrinn epter Páls-messu. Þad er ad forngildu kaullud leigu-fær kýr, sem kemz til 6 marka [*7 marka] miolkur, þá hún er best, og sama er halded enn; edr miólke hún 5 merkur á sumur ad jaufnum miaultum; enn til hálfrar leigu giörer sú, sem miólkar 3 merkur vel sa.

Þad

C al.

Það er mælt, að sú kýr, sem miólkar hálfann fiórdúng [ɔ: 10 merkur] í mál á sumre, þá hún er sem best, hún skal gióra 6 fiórð. smiörs á sumre. Allt leigu-fe skal sa ábyrgiaz, sem leiger, utan við bráða-og lúngna-sótt, kefling, lamb-burðe og lystur reið [reiðar-slage]. Ef lester eru áorðner, hale slitenn, horn broteð, þá skal løstu bæta epter løgum.

Fyrer fang gialðaz - 12.

(Fyrst leigan er nú á daugum uppstígen til 20 al. þá mætte fang-bótin eins uppstíga; því hvorttveggia var jafnt til forna, leiga og fang-bót.

**J þeim skrifum, sem nylega eru utkomen, um það pest-dauðu**
áfavdar kúgilde, er kúgildis ávöxturiñ útreiknaðr sem fylger:

Eg vil fyrst, seger þar, taka á einne smá og jafn-miólkre, enn þó dropasamre kú, sem almennelega kallaz óleigu-fær stirtla. Hún skal standa geld 2 mánude, og þar ímót miólka so miked, ad það reikniz so, ad hun miólke í mál 2 merkur, enn á hverium dege í 10 mánude 4 merkur; hvad ef samanlagt er, þá verda það 1216 merkur, enn ad verdavrum, ef 50 merkur míólkur eru epter gaumlum B. l. lagdar í 5 al. verdr það C 1½ al. Enn se med-al-kýr, sú er kelfer um vetrinn epter Páls-messu, til epterdæmis teken, þá verdr það so látande. Þann fyrra part Februarii kemz hún til 8 marka í mál, enn þann sídare part þess mánadar til 7 marka, sem giører til samans 420 merkur. Fyrra part Martii miólkar hún í mál 6 eñ þañ sídare 5 merkur, giører 340 merkur. Fyrra part Aprilis 4 enn sídare 3 merkur, giører 210 merkur. Allann Maium út skal hún standa vid 2 merkur, giører 124 merkur. Med Junio edr epter Fardaga fer hún ad græda sig smámsaman; so

hún

hún miólkar fyrstu viku Junii 3 merkur, adra 4, pridiu 5, fiórdu 6 og 7 merkur, giører 242 merkur. Fyrra part Julii kemz hún til 8 marka, eins og þá hún miólkade best um vetrinn, enn seinne part Júlii alleinasta 7 merkur, giører 440 merkur. Fyrre part Augusti miólkar hún í mál 6, enn sídare 5 merkur, giører 332 merkur. Fyrsta þridiúng Septembris 4, hinn annann 3, hinn seinasta 2 merkur; giører 180 merkur. J Octobri ætla eg henne mørk og hálfa mørk, edr ad lyktum minna; enn þad giører þó vel 40 merkur; hvad allt, til samans lagt, verdr 2334 merkur; enn til verdavra, ef 50 merkur eru lagdar í 5 al. giører þad C 113⅓ al. Enn komiz kýrin til 6 marka, og miólke so á hvørium árslns tíma epter proportion, sem sagt er; þá verda þad 1751 mørk, enn ad verdavrum C 55 al. Se nú fared ad reikna allann þann kostnad, sem hafdr er fyrer þvílíkum kúm, þá verdr fódrid 60 al. leigan 20 al., haga beit, hús og umhirdíng 20 al., verda 100 al. Hefr

so bóndinn til góda af 8 marka kúnne C 13⅞ al. Af 6 marka kunne 75 al. Enn af stirtlunne, sem fyrst var umgeted, 21½ al. Og hafe ecke bóndiñ af þessum gripum so miked gagn, þá er þad hanns vanrækt og illre medferd ad kenna, hvørs eingenn á ad gialda, nema siálfr hann. Læt eg þetta so sagt vera einasta um innstædu-kýrnar. Enn um ásavdinn get eg færra talad; þvi her á sudrlande er so illa med hann fared, ad eingenn er von á stórum gagnsmunum epter hann; þvi her má savdfe, jafnvel á megurdar-og landkreppu-jaurdum ganga úte giafarlavst, húsa og hirdíngar líted, og þad helst, þá mest áliggr, sem er þá móte vorinu sæker; þvi þá er vída orded heyia-líted; enn ei til vauktunar allvídast nema qvennfólk og únglíngar; þvi fært og fullorded fólk er þá flest til sióar komed. Gengr þvi fed so horad undan, ad þad varla edr ecke fæder láumb sín; og giorer þvi ei á sumrin helmíngs-já þridiúngsgagn vid þad, sem af þvi mætte hafa, ef betr være medfared. Og þetta er

vr-

orsaukin, hvarfyrer allfáer her um pláts vita, hvad miked gagn menn kunna af einu ásavdar-kúgilde ad hafa. Enn so illa, sem her er ad savdfenu búed, þá hefer eg þó heyrt fornuftuga búmenn segia, ad allt ef ærin fæder lamb sitt, þá giøre hún fullkomlega til sinnar leigu edr nockud betr. Posito, ad þvílíkar 6 ær giøre hid mesta 3 fiórd. smiørs, hálfa tunnu skirs og hálfa tunnu sŷru, sem ad verdavrum hleypr 65 al. hvar til kemr ull þeirra og laumbin, til samans 40 al. so importerar þad á áre 105 al. Hvarámóte uppákostnadrinn er allvídast einginn; utan leigan 20 al. og eru þá epter 85 al. sem bóndanum heim falla. Hvar í mót, ef þær være betr haldnar, so giørdu þær tvøfalldt meira gagn, ad minsta koste 4 fiórdúnga smiørs, 1 tunnu skirs, 1 tunnu sŷru; so ábatinn yrde þá ad vísu C 30 al. Vili einhvør segia, ad eg fare med þær ofgar, sem ei er hæfe til, þá vil eg framar stadfesta mál mitt med epterfylgiande vitnisburdum: 1.) Dóme Olafs biskups Rognvaldssonar, giørd-

um Anno 1473. Hvar hann og medbómendur dæma Þórarinn Þórarinsson landseta Hóla stadar, sem ei hafde golded leigur epter 6 innstædu-kúgilde, skyldugann ad betala epter hvert kúgilde 4 fiórdúnga smiørs, 1 tunnu skirs, og 1 tunnu sýru, og annaz þad þó ei ad sídr; þvi einn þridiúng ábatans láta þeir haunum epter þarfyrer. 2.) Fortaulum nockra skynsamra og sannordra manna í Isafiardar og Stranda sýsslum; hvar ám er alltíd hey ætlad og gefed vel, serdeilis þá fram á lídr, jafnvel þó hage se til. Þeir hafa sagt mer, ad hver vel halden ær miólke þar 2 og jafnvel 3 merkur í mál, þá vel lætur. Sá prestr lifer enn, sem sagt hefr, ad hann hafe þeckt þá á, sem miólkad hafe 5 merkur. 3.) Med vitnisburde þess nafnfræga vitra mañs Páls løgmañs Wídalíns, sem heldt gott ásavdar-kúgilde fyrer þad gagnsamasta hundrad, sem á Islande fengiz; hvar til ein hin fornemsta orsauk være, ad þad þyrfte í bærelegu áre miaug líteñ uppákostnad, edr optast ei meir enn

10

10 a 15 al. virde, og má þó vera vel halded.

| | C | al. |
|---|---|---|

*XII. Cap.*

## Havst-lag á slatrum.

Se epter mør fared, er mælt, ad savdr med maurkum 10 se - 10

og so frammvegis. Med 20 maurkum mørs - 20.

Skamm-rif af þre-vetrum edr gaumlum savd edr hrút med bægium - 6.

Bæger af savd eru - 2.

Krof af hrút edr gaumlum savd vege hálf-vætt; og stande á hæklum þurt 10.

Krof af tvævetrum savd edr geldre á - - 7.

Skamm-rif og bæger af tvævetrum edr geldre á 3½ edr - - 4

Krof af vetrgaumlum edr mylkre á, sem teked hefr

hata

| | C | al. |
|---|---|---|
| bata, og er skoren um Allraheilagra-messu - | | 5. |
| Bæger med skam̃-rifum af soddan kropp - | | $2\frac{1}{2}$ |
| Annars reiknaz kroppr af þre-vetrum, edr gaumlum, edr hrút fyrer - | | 18. |
| Og ef krosid vegr hálfvætt og stendr á hæklum þurt | | 20. |
| * Enn af tvævetrum edr geldre á - - | | 12. |

(Þá er líklegt, ad skam̃rif og bógar ege med ad fylgia.)

* Þad er kalladr lag-saudr, er maurk mørs héfr med hvorre alen, hvort sem hann er úngr edr gamall. Þar skal allann mør úrvega og líka garnmørinn. Se í haunum fiórdúngr, þá er hann 20 al. enn se í haunum $1\frac{1}{2}$ fiórdúngr, þá er han̄ 5 aurum; eru í haunum

2

C al.

2 fiórdúngar, þá er hañ 40 al. og rett goldenn hvør fyrer sig í Guds tíund, og alen dýr med hvørre maurk, þó meire se mor í haunum.

* Fiñ avrum er gamall geldíngr á havst til saulu, ef þeir reiknaz ecke vid, sá er selr, og hinn er kaupser, hvad í haunum er.

* Þad er kallad lag-neyte ad fiórdúng mørs hafe med hvørium vetre.

* Limer af vetrgaumlu lagneyte - - - 6

| | |
|---|---|
| af tævetru - - | 12. |
| af þrevetru - - | 18. |
| af fiogravetra - | 24. |
| af fiñvetra - | 30. |
| af sexvetra - | 36. |
| af siovetra og eldra | 42. |

Aunnur B. l. þió af tvævetru navte fyrer 10 al. 5 al.

| | C | al. |
|---|---|---|
| 5 al. er bógr 5 al. er skam̃-rif. Eyrer sída. 12 al. hriggr. 5 al. er fiórdúngr af aullum smá-vogar mat, þad er allr bein-lavs matr, ad Marteins-messu, sem var slátrad fyrer vetrnætr. | | |
| * Hofud af gamal-kú er eyrer. | | |
| Ef savd er uppskipt, þá er | | |
| þió edr lær - - | | 2. |
| hriggr - - | | 3. |
| bæger - - | | 1. |
| sídur med huppum - | | 5. |
| skam̃-rif bægialavs | | 5. |

*XIII. C a p.*

## Sala á feitum mat.

| | | |
|---|---|---|
| Sumar-smior 2 merkur edr skála-pund - | | 1. |
| Enn 20 merkur edr fiórdúngr nú - - | | 10. |
| Og 12 fiórdúngar edr smior hálf-tunna - | 1. | |

Vet-

| | C | al. |
|---|---|---|
| Vetrar-smior 2½ maurk 1 al. enn fiórdúngrinn | | 8. |
| Log-bók sýner, ad smior-fiórdúngr í fyrre tíd hefur kostad eyrer; verda þá 3½ markar í alen. | | |
| Tví-brædt hanged flot er jafnt smiore 2 merkur | | 1. |
| Og fiórdúngrinn - | | 10. |
| Mor selz giarnan 28 merkur | | 10 |
| Eñ vætt og 8 merkur 10 avrum - - | | 60. |
| Mor segia aunnur B. l. 2½ (*2½) maurk - | | 1. |
| * Tvær tunnur mors C, og er illt. | | |
| Adrer setia mor-vætt 10 avrum; þá eru 27 merkur 10 al. enn 2⅔ úr maurk í alen. | | |
| Þegar rettr smiorfiórdúngr selz 8 al. þá eru 2½ maurk 1 al. enn 25 merkur 10 al. | | |

Sum-

| | C | al. |
|---|---|---|
| Sumer skrifa mør-vætt 64 al. Og nær þad rett þeim reiknínge*, Enn sinnz skrifad, ad mør-fiórdúngur se 6 al. *. Þá er vættin mørk, þad er 48 al. Sperlar hafa sama verd, sem og nývillínga-flot. Adrer segia: nývillínga-flot er lakara enn mør. Hálfr annar fiórdúngr mørs fæz nú valla 10 al. þá eru 3 merkur mørs í alen. | | |
| Sel-spik saltad ad vigt 3½ merkur - - | | 1. |
| Enn 1 fiórdúngr er eyrer | | 6 |
| Hálfvættar sel-kópr háls-skorenn med skinne og beinum - - | | 10. |
| Sel-vætt med feitt og mag-urt - - - | | 20. |
| Hvalr á fiauru selz epter gædum. | | 3 vætter |

| | C | al. |
|---|---|---|
| 3 vætter hvals, hálft spik, hálft reinge, almeñelega - | | 20. |
| Nú tídkaz ad selia 2½ vætt hvals og al-tunnu med þvest og túngu 20 al. verdur þá al-tunnan 5 al. | | |
| Vætt af reidar-hval - | | 40. |
| *40 al. er hálf-vætt af reide þurre, enn 6 vætter fyrer hundrad á fiauru, hálft hvort, spik og reinge. | | |
| Hálf-vætt spiks og hálf-vætt reingis - - - | | 20. |
| 32 merkur med þurrañ hval, eyrer - - - | | 6 |
| 20 merkur lýsis - | | 5. |
| Fiórdúngr af blaudtum hákall í fiauru - - | | 1. |
| Enn 6½ merkur af þurrum hákall - - - | | 1. |
| Vætt af þurrum og signum hákalle (Siá 17. Cap.) - | | 20. |

*XIV. Cap.*

## Mioolkr-matr.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Ný miólk samfengen 10 merkur | | 1 |
| 50 merkur eru þá 5 al. og tunna fyrer hálf=mork | | 24. |
| Undanrenníngar tunna | | 12. |
| Eru þá 20 merkur | | 1. |
| Fiordúngs ostur epter þriggia daga þerrer | | 5. |
| Fiogra marka ostur | | 1. |
| Skyr=tunna seck=bærrar, hvstu | | 60. |
| Þá er pund=kerhald eyrer, enn 4 merkur | | 1. |
| Skyr=tunna, þá hart er, 15 aurum | | 90. |
| *Tvær 12 fiórdúnga tunnur med skyr seck bært eru | 1. | |
| 8 merkur nýrrar miólkur undan geldmiólkre kú eda savdum, mælt koste | | 1. |
| Enn 40 merkur | | 5. |
| Sýru tunna (dryckrinn se so súr, ad 11 merkur vatns blandiz med 1 mork; og heiter þad tólftar=blanda) | | 12. |

Sýru.

| | C | al. |
|---|---|---|
| Sýru-fiórdúngr - | | I. |
| I verum seliaz 80 merkur | | 5. |
| Nú plaga menn ad selia á havstin hálf tunnu fyrer 5 al. heim til sveitaz; enn 50 merkur eru keyptar vid sió fyrer 5 al. Kiæser, fífa, borkr. Siá 24. Cap. | | |

*XV. Cap.*

## Eggia verd og fugla.

| | | |
|---|---|---|
| 20 ædar-eggia 1 al. Tólf-rædt hundrad eyre - | | 6. |
| Grágiæser 2 ferskar og feitar - - - | | 6. |
| Gamal-álft - - | | 6. |
| Selnínga hundrad - | | 6. |
| Svart-fuglar 30 - - | | 5. |

*XVI. Cap.*

## Matar-grays kosta.

| | | |
|---|---|---|
| Solva vætt - 12 edr - Solva fiórdúngr edr 16 merkur - | 10 | I. |

| | C | al. |
|---|---|---|
| Allt eins kosta þríhrist fialla-graus, vætt 12 edr | | 10. |
| Róta fiórdúngr - | | 1. |
| Miøl og miølvægr matr, vætt - - | | 40, |
| *Pund matar af miølvægum mat er eyrer. | | |
| Fiórar merkur miøl-vægs matar - - - | | 1. |
| Sumer kalla 5 merkur miøls 2 al. enn fiórdúng 8 al. og í nockrum B. L. er mel-vætt 80 al. Þá er skálapund 1 al. enn þetta er ofurdýrt. | | |
| Beria fiórdúngr - | | 6. |

## XVII. Cap.

## Fiskata-verd.

| | | |
|---|---|---|
| Vætt af góðum (ei maug-rum, maultum ne dálk-störum) fiske - | | 20 |
| 8l merkur fiska eru í alen, og fiórdúngrinn - | | $2\frac{1}{2}$. |
| (4 marka fiskr er kalladr gyldr.) | | |

| | C al. |
|---|---|
| Laungur kosta eins. Þær 20 - - - | 20. |
| Þosk-hofud medal-stór og og vel orden med kúlum og tálknum hundrad - - - | 6. |
| Ísur rosknar 60 - | 20. |
| Steinbítar 60 heiler og óskeñder - - | 20. |
| Skata alrosken vel lifrud - | 1. |
| Sunn-maga vætt - | 30. |
| Riklíngs vætt eins - | 30. |
| Eru þá 5½ merkur riklíngs - - - | 1. |
| Rafabeltis vætt vel feitt og þurrt - - - | 40. |
| Eru þá 4 merkur í alen. | |
| *Tólf merkur og tuttugu riklíngs er eyrer. | |
| *Rafabellta-vætt þurr og saultud er 10 avrum. | |
| Hákalls-vætt af misseris-gaumlum hákall er - | 20. |
| Enn af gagn-þurrum. [Siá ódr 13. Cap] - | 30. |

| | C | al. |
|---|---|---|
| Hákalls-fiórdúngr blautr í fiauru er | | 1. |
| * Þridiúngr innar settu merk-ur med þurrann hákall er alen. | | |
| Lax-fiórdúngr af þurrum lax | | 5. |
| Af blautum lax 6 merkur 1 al., enn 4 merkur af þurrum. | | |
| Þá eru 6 fiórdúngar af blautum lax | | 20. |
| 20 raud-magar | | 1. |
| Urride þurr 8 merkur 1 al., enn 6 fiórdúngar | | 15. |
| Silúngur epter samnínge | | |

## XVIII. Cap.

## Skinna-verd.

Skinn óveged edr blautt selz ad handa-höfe

| | |
|---|---|
| Af uxa þrevetrum edr fiøgravetra | 30. |
| af fim- edr sex-vetra | 35. |
| Auldúngs-húd | 40. |
| Af vetrgaumlum her um | 10. |

Af

| | C | al. |
|---|---|---|
| Af tvævetru navte = | | 15. |
| enn best og vænst = | | 20. |
| I gaumlum B. l. er þurr skinn-fiórdúngr af auldu navte = = | | 20. |
| enn af útegangs-navte = | | 30. |
| Kýr-skinn eru misiausn: lakare = = | | 15. |
| enn í betra lage = | | 20. |

(Hunder þessar seu oospialladar, af hnúf-skornum gripum.)

Af sótt-davdum og maugrum er alldrei jafn gott; þó sæz ei soddan kavp í skó-ledrs eklu.

| | | |
|---|---|---|
| 6 merkur ledrs í eyrer; þá er fiórdúngrinn = | | 20. |
| * Eyrer skæde innan úr uxa-húd. | | |
| Nú sæz fiórdúngr ledrs ei minna enn = | | 30. |
| Kálf-skinn af ný-bornum* = | | 1. |

| | C | al. |
|---|---|---|
| Nú veniulegast af þrknættum kálfe ⸗ ⸗ | | 2½. |
| Skafed kálfskinn eyre ⸗ | | 6. |
| Enn þad er ofdýrt; þvk alen kemr á ad skafa kálfskinn.* | | |
| Skinn af vor-kóp optast af láturs-sel fyrer 7½ edr ⸗ | | 5. |
| enn af gaumlum sel bærelegt 10 edr ⸗ ⸗ | | 15. |
| 2 merkur af haurdu og gallalausu klippfnga skiñe | | 1. |
| Nú selz gódr savdar klippfngr * 5 edr ⸗ | | 6. |
| Enn af tvævetrum 3½ al. og af vetrgaumlum ⸗ | | 2½. |
| Og ær-klippfngr [* fyrer hálfann eyre] ⸗ | | 2½. |
| Skiñ-stackr af 4 fiórdúngs skinnum - ⸗ | | 12½. |
| Ný skinn-brók gedug af 2 savdar-skinnum og 1 kálf-skinne 15 edr ⸗ | | 18. |

Ad

á audrum [og berfausull] Silinn 2 handfaung.

31. Sá skal láta í fódr reka sem á, enn hinn heim skila, sem elr.

## VI. Vallarmaal.

32. Eyres vollr 30 fadma á hvorn veg á slettum edr lítt þýfdum velle. Af krappa-þýfe skal sitga nidr vadiñ mille þvidiu hvorrar þúfu, edr festa annann enda af hálf-þurrum vad þrítugum, enn toga hardt í þann lavsa, so hann hrocke ad sleppt er, er þá 30 fadma taled, á mille enda hanns.

33. Hálfr annar eyresvollr, í kýr-fódrs velle.

34. Kýr-fódrs vollr er 20 fadmar á hvorn veg út frá hæl, og bere í krínglóttu.

35. Kýr á ad fódraz á alvelle 40 fadmaz enn þó hefr hún til forna fódraz á hálfum audrum eyres velle,

 hann

hann er nærre því 34 fadmar á hvorn, og því heiter það kýr-fódurs-vollr.

36. Kýrfódrs veller eru 4 í logvelle.

37. Eyres veller 6 í logvelle, því er sá vollr kalladr viku-verk.

38. Það er heill vollr, sem er 40 fadmar á breidd og 80 fadmar á lengd.

39. Viku-verk eru freker 73 fadmar á hvorn veg.

40. Stacks-einge eru 9 al-veller.

41. Stacks-vollr skal vera C fadma á hvorn veg horna á mille.

42. Sagt var epter Þórde Gudmunds syne logmanne, ad stack-enge være 40 fadma vallar mál, og se bored um hæl, og í kápu dreged kringlott ad mynd sem stackr.

## *VII.* Um leigu-fe og penings vaugtun.

43. Nú plagar, ad ſkiliz heim á havſt til ſkurdar gamal=kýr, og ſetiz auñ-ur í innſtædu aptr í hennar fódr.

44. Og er þad reiknad 40 ál. fódr.

45. Ef leigu=lide kavper gamla iñſtædu-kú á havſt, og eingen er aptr ſett í fódrid, bæter lands=drottinn haunum 20 ál. til kýrinnar og fód-urſins, ſo hann ſvare aptr kúgilde; Enn hálfre mørk edr 5 avrum, ef afnáms kýrin er ſo ſlæm, ad hún ſe ei nema merkur virde.

46. Aſavdar kúgilde gamallt í bygging er uppbætt 20 ál. edur beſt 5 avrum, ſo gildt útſvariz; enn ſum=er vilia áſavdar=kúgilde avngvu uppbæta.

47. Ærin er halden gaumul 9 vetra edr eldre.

48. Ad forngildu, ſeger hann, er leigu-fær halden kýr, ſu 7 merkur miólk=ar, þá meſt er.

49. Sú er nú halden leigu-fær, sem miólkar 6 merkur jafnum miaultum á sumar: 2 fyrer fódre, 2 fyrer leigu, 2 fyrer ábyrgd. Þad á ad skiliaz um kýr, sem bored hefur epter Páls-messu, enn ei sneṁbæra.

50. Geld-miólk kýr byggiz til hálfrar leigu.

51. Eins tvævetr qvíga sú gód er; enn ad logum ei nema til fódurs.

52. Leigu-fed ábyrgiz sá er leiger, utan vid aldre, lúngna- og bráda-sótt, kesling, og lamb-burd, og lystr-reid [Item dæmt í logrettu], jokla-hlaupum, elds-gánge, vofeiflegum skridum og vatna-gánge.

53. Leigu-fært kúgilde er mælt, giore smior-mork á dag.

54. Kýr, sem á sumar kemz mest í 10 merkur, giorer 6 fiórdúnga smiors.

55. Merkur-bolle af þickvu skire kemr á ad miólka 2 kýr í hvort mál.

56. Fiórar álner koma á ad geyma hvort

hvort kúgilde frá vetr-nóttum til sumars, og stoda bolle í annad mál, og kýr-nyt í fiose undan hvorre kú, þá hún er sem best (ad undantekinne brodd-miólk); geyme kálf, ef lifer; enn eigniz svid þess, hann sker; rake skinn, og skile þurru og þaundu; her ad avk ake 20 hlauss-um á voll undan hvorre kú, og geyme tarf avk kavps; enn ábyrgiz hvort kúgilde, sem af hand-vaummum deyr.

57. Mælt er, eitt lamb se goldet af 10 fyrer ær-geymslu og hag-beit frá fardaugum til Kross-messu á havst.

58. Ein skæde skal tilleggia med 5 á-savdar kúgildum, sem burt er komed til geymslu um vetur [adrer hafa med hvoriu kúgilde.]

## VIII. Varp og Vestnade.

59. Mælt er, ad á gialda-vod ege ad vera varp tvo hundrud tíræd. Sumer hafa 110 annars hundrads, enn á breid-

ding

dinn skal hún vera hálf þrí-breid.

60. A klæda-vod á vera CC tólf-ræd, eins á breidd og hin.

61. A smærra vadmále 80 þridia hundrads edr CCC tólf-ræd, og hálf þrí-breid.

62. Tveir þræder teliaz fyrer einn.

63. Mælt er, í 26 álna langa gialdavod fare 22 merkur garns, se ecke miked af havst-ull saman vid.

64. Enn tveir fiórdúngar garns í 30 álna langa vod.

65. Enn í 9 álna lánga vel 12 merkur á 13du, se ecke garnid miög siórt, ne mikel havst-ull.

66. A smærre vesium fer betr, ad se lagt nockud framyfer.

67. Þrádr er lagdr upp epter markatale, ad vadmáls alen fáiz epter hvoria þrádar mörk. Se þrádr smár, er haft því fleira á vefnum.

68. Sumer stika hvoria alen ad yferlaugdu hand-fange á qvardanum, so

so þad mæliz rett ofanfrá rifnum.

69. Mælt er, vest þurfe tvíslíkt vid varp í vodinaz þó er þad komed under því, hvad margt er á vodinne; því þess meir gengr af vestr, sem varp er meira,

70. 2 fiórdúngar 13 merkur á ad vera 20 álna vod. Merkur vod 3 fiórdúngar edr hálf=vætt. 10 avra vod hálf=vætt. Hálfvætt er kallad fara ege í vod 24 álna lánga; enn tveir fiórdúngar í 13 álna langann vef, og 7 áluer úr ullar=fiórdúnge.

71. Tíu merkur ullar vegaz út vinnukonu til viku ad vinna úr vest og garn í gialda vod.

72. Hálf=vættar vod 26 álner ó=þæfd á ad gánga í þófe um tvær álner, so hún verde 24 álner þæfd.

73. Í vauru virdt skulu vera aull vadmála hundrud, hvort sem eru 40 álna edr 10 avra voder.

Smá=vadmál kallaz þad twofaldt er dýrra enn gialda=vod, allrasmædsta, ferfaldt

ferfaldt dýrra. Klæda-edr hafnar-vod, þridiúnge dýrre enn saulu-vod.

## IX. Um utgifter.

74. Bónde hver lúke mat-giauf á 12 mánudum hvorium fyrer sig og hvert skyldu-hiú sitt, frá því þavg eru 14 edr 16 vetra, heiler menn og meiga fasta. Skyldu-hiú eru þeir aller, sem einn á ad skyldu fram̃ ad færa, og þeir verkmenn aller, sem þar þurfa ad skyldu fyrer ad vinna.

75. Skulda-hión eru karlmadr og kona á 60 hundrudum, og líka þó meire se kavpskaprinn.

76. Fyrer karlmann er á áre mat-giauf 6 marka skam̃rif, enn 4 marka fyrer konu.

77. Karlmadr hvor og kona þó búlavs seu, sem eiga tveggia missera biaurg, gialde hvort um sig mat-giauf.

78. Lánga friádags verdr ½ al. fyrer konu og 2 hluter fyrer karlmann skal gefaz med ráde sóknar-prests.

79. Ei plagaz ad gialda fyrer þær konur; er standa í barn-eign.

80. Enn fyrer 3 nætur hinar skulu hrepp-stiórar skipa og skipta mat-giaf á havst med audrum tíundum.

81. Eru þá 2 ál. fyrer karlmann enn 1½ al. fyrer konu.

82. Hann er ei geldr, sekr 3 aurum, og tvígialde mat-giauf fyrer hvert hióna.

83. Bónde hver er skyldr ad fæda diák-na med preste, frá Mikials-messu til Kross-messu á vor, jafnvel þó hann se rídande.

84. Heima-bónde fáe mann til, þá madr sylger ei preste, þann er se full fylgd ad.

85. Prestr er skyldr ad hafa med ser þann mann, sem haunum se full fylgd ad, og haunum þióne í messu.

86. Hver sá bónde, er gras-nyt hefur, gialde preste hey-toll mille Mariu-

messna á sumre, tvo sumar-bands hesta af miólk- og lamb-gæfu heye, þvi er sleged er á mille túns og mýra.

87. Prestr hafe avngvann hey-toll á þvi áre, er hann vill ei taka uppbodenn í tilsettann tíma.

88. Sekr 3 avrum, sá ei vill gialda í settann tíma.

89. Ara lögmanns samþyckt: ala skal 14 daga á vetur hest prests fyrer hey-toll.

90. Hey-tollr prests haldenn og lagdr ad fornu eyrer, borgaz vætt tvíhristrar taudu, goldinnar fyrer Kindel messu.

91. Hión, sem eiga hundrade minna skuldlaust, gialde einn lióstoll.

92. Enn tvo; ef eiga hundrade meira.

93. Hvort hióna, sem andaz um fardaga, og stendr búnadr saman, lúkiz einn lios-tollr.

94. Enn ef sundur er brugded búe, lúke einn lios-toll hvor ad páskum.

95.

95. Halde madr ómaga-eyrer í laga umbode, lúkiz þar liós-tollr, sem hann sitr, í hvorre kyrkiu-sókn, sem ómaginn tekr Guds líkama ad páskum.

96. Þeir sem hvorge eru heimilis-faster, lúke þar lios-toll, sem þeir voru ad Páskum edr misserts þiónustu.

97. Eingen út-kyrkia take fleire liós-tolla, enn af heima-mannum þeim, sem bonde heldr á sinn kost á 12 mánudum.

98. Af eyde-jaurdum, edr þar einge býr á, gialdiz einge liós-tollr.

99. Hióna-liós-tollr er hálf mork matar vegen. Adrer segia: Tveir avrar vax edr 6 kerte, þeirra er vega 12 merkur, er einn liós-tollr. Ennnú adrer: hióna-liós-tollr er 4 avrar ɔ: vax. Sumer segia: greipar-kerte álnar langt fyrer hióna liós-toll.

100. Lausamanns liós-tollr er hálfu minne. Eindage ad giallda liós-

 toll,

toll, lange friádagr; seinaste, Páskar, under þriggia edr 12 avra sekt.

## Um Tíiund.

101. Gamallt tíundar lag á dauðum peníngum er ad fella þá til þridiúnga, so ad 3 hundrud seu fyrer 1 hundrad.

(Þennann þridiúnga-feller halda vitrer menn og lærder á aungvum lögum grundadann.)

| | |
|---|---|
| 9 avrar silfurs edr 9 rdr (mun vera eiga: 12 fyrer 9) í | 1. C |
| 60 merkur vax - | 1. |
| $7\frac{1}{2}$ vætt smiörs - | 1. |
| C stikur enskt lereft tvíbreidt - - | 1. |
| Þríbreitt lereft 100 álner | 1. |
| Þýdskt lereft 5 qvartera breidt C 80 álner - | 1. |
| 8 vætter blástr-járns - | 1. |
| 10 vætter og 2 fiórd. fellu járns - | 1. |
| Attæríngr med aullum reida er 3 merkur til tíundar - | 1. 24 ál. |

Sá

Sá sem ómaga hefr fram̃ ad færa á verkum sínum, þarf ei ad tíunda; þó hann ege 10 aura skuldlaust.

Í þeirre sókn skal tíund giøra af hvorium jardar ávexte, sem uppvex, hvar sem eigande er á víst.

* Rauda-smidia alfær med aullum tólum til tíundar 3 merkur.

* Silfr og gull skal tíunda epter bókar lage.

* Priár sængur nýar ad aullu, þar eingenn þarf í ad liggia, skal tíunda fyrer hundrad.

* Þetta er tíundar-giald edr tíundar-skipte á peníngum, ef madr vill eina tíund úr taka edr giøra.

Hvor sá madr, sem á til 10 aura fyrer útan hvornsdagslegann búníng sin̄, skal greida hreppstiórum og fátækum maunnum til handa alen vauru.

Enn sá sem á C, skal greida 2 ál. vauru.

Enn sá sem á CC, skal greida 3 ál. vauru.

Sá sem á CCC, skal greida 4 ál. vauru.

Enn sá sem á til CCCC, skal greida 5 ál. vauru.

Og sá sem á til D, skal gialda 6 ál. vauru; og skiptaz þá tíunder í fióra stade og so upp frá því; er þá hálft þridia-qvartel vadmáls í eina tíund o: 2 qvart. 2½ þuml.

Enn sá sem á DC, 3 qvart. vadmáls í eina tíund.

Af DCC tveimur þumlúngum fátt í alen.

Af DCCC tveir þúmlúngar á annarre alen vadmáls.

Af CM alen vadmáls og hálft qvartel betr.

Af M qvartel og vadmáls alen.

Af MC þumlúnge fátt í hálfre annarre alen vadmáls.

Af MCC hálf aunnur alen vadmáls.

Af MCCC tveir þumlúngar midr enn 3 qvart. á annarre alen vadmáls.

Af MCCCC qvartel midr enn 2 álner vadmáls.

Af MD hálfu qvartele fátt í 2 álnum vadmáls.

Af

Af MDC þumlúnge fátt í 2 álnum vadmáls.

Af MDCC 2 þumlúngum fátt í qvart. af þridiu alen vadmáls.

Af MDCCC þumlúngr og qvartel og 2 álner vadmáls.

Af MDCCCC hálft annad qvartel á þridiu alen vadmáls.

Af MM 2½ al. vadmáls í hvoria tíund eina, og er þetta ein tíund, og eykz so fram af hvorium 20 hundrudum þadan í frá.

(Þesse reikníngr er settr hér til fródleiks; enn hann er ei so smábrotenn, sem vera byriar, epter nú veniulegu vadmáls verde.)





# Alþingis-Samþyckt
## um
## Lavsamenn, Vinnuhiuu
## og
## Lavsgangara.





Anno 1722. þann 13da Júlii i logrettu publicerad Hañs Excellences Hoyædle og Velborne **Peder Raben** Riddara, Köngl. Mayſts Admiral, Stigtamtmanns yfer Islande og Færeyum, oped bref, sem hann af nád og bevaagenhed fyrer þessa lands velferd hafde

befalad þar ad publicera, sem Þíngbókin vitnar Num. ••• J fyrr nefndu hanns Excellences opna brefe talaz um ſkada og háſka þeſſa lands, sem reiser sig af margra manna óloglegre lavſamennſku, ſt. óhlýdne vinnuhiúa, ſó vel sem lavsgaungurum og betlurum, sem af qvonſange þeirra orſakaz. Hvarfyrer í Velædla og Velbyrdigs Amtmannſins **Niels Fuhrmans** præſence logmenn og logrettan med hanns ſamþycke tóku þad til ráds, ad á ſunnudags kvolldid þann 14da Júlii ſamanſaufnuduz bæde logmenn og ſýsſlumenn til conference og deliberation um þeſſa ſtóru landſins navdſýn. J þá ſesſion innſende Velædla og Velbyrdigur Hr. Amtmadurinn ſitt misſive af dato 13da Júlii, sem ádur nefndt efne greinelega ſetur fyrer ſióner, med ordre, ad logmenn, ſýsſlumenn og þeir vitruſtu logrettumenn, sem þeir vilia med ſer tilkalla, uppleite þad rád, er heita mege allraunderdánugaſta forſlag til Hanns Kóngl. Majſt, hvornen þeſſe landſins ſkade mege

ge rénteðeraz, og háſkinn afvendaz. Þar=
með let Velbyrðigur Hr. Amtmaðurinn
fylgia þær underrettíngar, ſem til hañs
innkomnar voru frá heilum héraudum
Num. 1. frá Þverár þínge ſunnan Hvítá;
Num. 2. frá Þverár þínge veſtan Hvítá;
bæde, ſem hlióda um fyrr greint efne.
Item þá gaumlu Stigt-amtmanns ordu,
her í landinu giorda 1490. ſem al=
mennelega kallaz pínnings doomur
Lit. A. Item lögmanns dóm, geng=
enn her á alþinge 1531. og ſama ár af þá
verande hirdſtióra ſamþycktur, Litt. B.
Og hið þridia document, úrſkurð hirð=
ſtiórans Claus von der Maurits=
ſen, ſem her var Stigt-amtmaður 1537.
1538. 1539. Aſamt með þá verande
lögmanns Þorvards Erlendsſonar
úrſkurde Litt. C. Og að ſíðuſtu her=
aðs dóm eins nafnkunnugs ſýsſlumanns
Daða Gudmunds ſonar, dat. 1555.
Litt. D. Aull þeſſe document con=
ſpirerande með einu innehallde, að af=
ſtýraz ſkule ólogleg lavſamennſka, ólög=
legar búdar=ſetur, óbærelegt kavpgialld,
ſem

sem almúganum se til þvíngunar, med fleira, sem í ádur nefndu Hanns Excellenses Hr. Stigt-amtmannsins og velbyrdigs Hr. Amtmannsins brefe mentioneraz. Ennþá var ad velbyrdigs Hr. Amtmañsins forlage producerad ost fyrer sióner þad skrif sál. byskupsins Mag. Thordar, og logmañaña Sigurdar Biørns sonar og Magnuusar Joons sonar, sem Anno 1685. er af aullum þeim og fleirum gódum maunnum epter Kongl. Majsts allra-nádugasta Missive 1684. til þeirra, og þá verande landfógeta Assessor Heidemañs útgefed, giort á Bessastaudum, og almennelega kallader Bessastada Póstar, sem frá Num. 2. og allt til Num. 12. inclusive tracterar fyrr skrifad efne. Og ad síduslu feingum ver í hendurnar logmannsins Lauritz Gottrups Politi-ordningar project, sem hann so sem deputeradr frá landinu Anno 1720. hefur í Kaupenhafn fyrer þar til deputerada Commission producerad, og í maurgum greinum talar um þennann landsins voda og þar á mót naudsynleg úrræde. Aull þesse document

vorn

voru fyrer oss uppleſen og uppáſkrifud. Enn med því þeirra vidtloptigheit eru ſtór; kunna þavg ómøgulega ad innfæraz á þeſſu løgþínge; þad ſkedur bak vid þeñ; ann act, ef møgulegt verdur, ádur Stigt: amtmadurinn ſigler frá landinu. Enn ver ſamannkomner haufum giort vort allraunderdánugaſta Betænkende ſem epte erfylger:

## 1.) Um Lavſamenn.

Aullum þeim maunnum, ſem ecke eiga tíu hundrud tíundar verd, ſe med aullu fyrerboden lavſameñſka, under hvadá prætext eda yferſkyn þeir kalla vilia; nema þeir beviſe, ad þeir hafe boded bændum ſína viſt med ſlíku kavpe, ſem ſýsſlumadur og hreppſtiórar hafa meted ſanngiarnlegt bóndanum til hagnadar og lavſamanninum til ſæmelegrar fiár-vonar. Enn þad eru **tíu hundrud tíundar verd**, þá lavſamadurinn hefur árlega ſíns fiár ávoxt 12 ál. af hundrade hvoriu því, ſem eru davder avrar, edur gelldt kvik-fe, enn af málnytu kúgillde hvoriu veniu rentu, 20 ál. Nú ſkal f

þessum tíu hundruðum mál-nýtt kvik-fe vera 3 kúgillde hið minnsta, so lavsamadurinn, þegar navdsýn krefur, verde niðursettur til bónda á eitthvört. Það lögbýle, sem hæfe liggur við að eydeleggiz vegna manneklu, hvört sem lands-drottinn er Kóngur eða þegn, kyrkiur eður aðrer. Og beþeinkium ver, að þesse 3 kúgillde skule gillda við sió-plátsin alleina. Enn í þeim grausugu heraudum upp í landinu, þar sem ecke er byggt á siávar afla, skulu hanns mál-nytu kúgillde vera fimm hundrud; uppá það að alltíð se hann megnande til að gioraz bónde, þá navdsýn krefur. Þetta sitt kvik-fe skal lavsamadurinn fæða, so að hann avngvann bónda þvinge frá hanns gagne, og betale þeim, sem á jaurdu býr, fyrer það, sem hanns kvik-fe geingur í landinu, og hafe þó leigu-fe fyrer haga-gavngunne, og má ecke hafa ella; og þá er hann að logum lavs, ef hann hermed árlega gelldur skatta og skylldur Kónge og kyrkiu, preste og fátækum.

Nú giörer einhvör lavsamadur það yferskyn á, að so se hann fe-ríkur, sem nú

nú er mælt, enn hreppstiórar edur adrer góder menn hafa misþánka um, ad hanns gróde stofne bóndanum skada; þá eiga hreppstiórar ad examinera þad, og skulu so giora, nær sem sýsslumadur tilsegér. Skal þá bæde lavsamadur og bónde vera til vidurmælis, og kalle sýsslumadur báda uppá lavsamannsins kostnad, ef hann verdur sekur. Enn ef þá skorter vitne til saugu þeirra; giore bæde lavsamadur og hanns húsbónde þann eid, ad þeir satt underrettad hafe. Reyniz einhvor lavsamadur framanskrifadar greiner í einhvoriu broted hafa; þá er allt hanns afla fe forbroted. Eiga bændur hálft í þeirre sveit, sem hann er fundenn brotlegur, þeir sem hanns þiónustu hefde þurft; enn hálft falle til kóngs í sýsslumanns hendur, sosem annar sakeyrer. Flester aller slíker lavsamenn selia bændum þiónustu sína um heya-tímann alleina, og þad, nú sem komed er, med óbillegu kavpe til landsins útaurmunar. Þvi er vor beþeinking til bóndans conservation, so lavsamadurinn mege þó

sub-

subsistera, ad aller þeir skule hafa **Ut-kvadis-verk** hiá bóndanum. Enn þad er ad fornum reglum landsins, þeim er eiñú meiga vel standaz, ad mæla skal þeim taudu-voll til sláttar á alen þessara tíma 90 álna vad, er 30 málfadmar; þeir í fiogur horn, heitir **ey-ris-vøllur.**

Hvor sá er vinnur slíka fiñ á viku, take 5 avra fyrer þá viku þiónustu; sá er vinnur 3, hafe 18 ál. sá er 4 vinnur, hafe 24 ál. Og stande þetta um fyrre fiñ vikur sláttarins; enn um engia tíma take þeir tveim álnum minna á hvorium 3 daugum; þad eru seinne 5 víkur sláttarins. Skulu þesser kavpamenn inunganga sína sumar-þiónustu á **Margretar-messu** þann 13da Júlii, og hafa loked deginum epter **Mauritius-messu** 23ia Septembr. Her nefnder kavpamenn skulu siálfer tilleggia ser verkfære í hendur, orf, liáe og bríne. Vinne nú þesser ei so miked, sem ádur er sagt; kortiz þad af kavpgialldinu epter advenant. Sumar-þiónustu

ustu lavn sín skulu þesser kaupamenn af bóndanum taka í smiörum hálf=part hid minnsta, so kaupamadurinn fáe lifad um veturinn; annann helmíng í gódum gilldum savdum og skó-ledre, eda þeim gilldum landsavrum, sem þeim um semur. Ecke gillda her peníngar framar enn epter taxtanum. Rett hefur bóndinn ad giallda allt í smiörum, ef hann vill. Eckert bóndanns og kaupamannsins accord má her í móte gillda. Eingenn af þessum lavsamaunnum má hafa skipa útgiord, so lenge sem nockur bónde eñ hefur skip full=skipad. Nú hafa bændur full=skipad, þá meiga sídan fullríker lavsamenn kaupa ser háseta. Nú finnz þarepter, ad einhvorn bónda vantar siómann, þann skál lavsamannsins skip missa. Eingenn lavsamadur má hallda vinnumann, nema þeir einer lavsamenn, sem af faustum egnum sínum og afgift þeirra hallda sig, og eru siálfer fremur enn þiónustu=fólk. Nú kunna þeir meñ ad vera, sem eiga minna fe enn fyrr skilur, og segiaz í því skyne lavser vera,

ad þeir hafe ómaga fram̃ ad færa, faud-
ur edur módur, baurn edur kvinnu,
brædur eda systur; þá skal hann giora
bevíslegt fyrer valldsmanne, ad hann hafe
á mannfundum, þíngum eda stefnum
boded árs vist sína og þiónustu hiá
bændum med kaupe, sem sanngiarner
dánumenn vildu meta, og þaradauk ó-
maganum til forsorgunar árlegann ávoxt
af lausamannsins hofud-stól, so vídt sem
þad kann til ad hrockva; hafe þá eing-
enn bónde viliad ad kaupinu gánga, vere
lausamadur ángurlaus í þá 12 mánude,
og nære sig sem hann kann ærlega. Bióda
skal hann hid sama bod árid næsta og
hid þridia, og allt so leinge, sem hann
vill laus vera ad logum. Reyniz under
þessum bodum underhyggia, straffiz sem
bloglega laus madur, á aullum afla sín-
um, sem ádur seger, og leggiz þad se
fyrer ómagana, enn hann rekiz í vist
med sýsslumanns og hreppstióra ráde.
Nú verdur sá einhvor lausamadur, sem
einusinne hefur mist alls síns afla fiár
epter framanskrifudum greinum, og hver-
skallaz

skallaz hann enn; þá skal sýsslumadur setia þann mann í stock eda hespu uppá vatn og fisk í 3 dægur, enn sveitarbændur skulu færa hann sýsslumanne, nær þeim verdur af sýsslumanne tilsagt; giore þeir þad ei, seker 4 mørkum, hálfpart til Kóngsins, enn hálf-part til fátækra í sveitinne. So framt ad hinn trássuge lavsamadur vilie þá þióna fyrer sínu bravde hiá sýsslumanninum edur þeim hann tilseger; þá skal hann sídan vera frí í vistinne; vilie hann þad ei, hafe dægur-hvílld og se í vakt uppá sinn betalíng í aunnur 3 dægur uppá vatn og fisk. Nú vill hann ecke betraz, hafe dægur-hvílld, og site sídan 5 dægur. Vill hann enn nú ecke leidrettaz, þá er hann þverskalladur lavsgángare, og líde, sem um þá er sídan talad. Hvor sá bónde, sem samhyller og samþycker óskilum lavsamanna, se sekur 4 mørkum vid Kóng, og giore sýsslumadur reikníng þar af sem audru ovissu sakafalle. I aullum locis publicis so vel á kyrkium og þíngum sem annarstadar skulu

vera gabestockar til ad seta í alla þá, sem óskil giora.

## 2.) um Vinnuhiuu.

Sá skal heita dugtugur vinnumadur, sem ad á viku slær 4 Eyris-vollu epter þvk mále, sem ádur er skrifad um kaupamenn, og vinna þarmed alla land-vinnu, hvoriu nafne sem heiter, og þarmed vera til sió-ródra gilldur, og órækur madur í stærra edur smærra skip-rúm. Er þad á hann skiled, ad aull þesse verk skal hann giora med trú og hollustu vid húsbónda sinn, og standa skil á hlut sínum aullum, sem hann aflar af sió, þá hann er í vere, samt haufdum, kúlum, sundmaugum, lýse og hvoriu nafne sem þær Guds gáfur heita. Hann skal og standa skil á medferd sinne af allre húsbóndans útgiord, hvad sem heita má. Enn þá er útgiordin logleg, er vinnumanninum er ætlad skinnklæde og aunnur sió-klæde til handa og fóta, rúmfaut og annad, sem vinnu-madurinn þarf navdsýnlega ad brúka til húsbónd-

aus

ans þiónuſtu, epter því ſem ver-ſtaudunne hæfer; neſte til reiſunnar, druck um vertíd edur eitthvad í hanns ſtad uppá landsvíſu, og ſídan mörk ſmiörs uppá hvorn dag, ſem hann dvelur, í verinu. Af fiſke hefur hann ſió-favng; enn ef hann bregdz, þá fiſka fiórdúng til vikunnar. Þegar hann er heima, og þiggur ſpóna-mat tvímælt; þá fær hann af fiſke og ſmiöre hálfu minna. Slíkur vinnumadur ſkal um árid hafa til lavna 80 ál. í þarflegum land-avrum kvikum og davdum. Hann ſkal og hafa til lavna 8 ál. vadmáls, ſem ſe hreinlega unned og vel tætt; tvenna nýa ſocka og eina vetlínga; hús og rúm-faut leggur húsbóndinn til og þiónuſtu til ad halda hreinum klædum vinnumanns, og lappa þavg; og árid umkríng ſkal húsbóndinn hann ſkæda. Vinnumadurinn ſkal heidra ſínar húſbændur, epter því ſem þeirra ſtande ſómer, hvort helldur þeir eru hærre edur lægre; og ef þav gefa nockrum dánumanne eda kvinnu audrum ordur í húſbænda ſtad ad ſkipa

á heimelinu; þá skal vinnumadurinn vera þeim hlýdugur, so sem þad være húsbændanna egen ord; og ef hann trássaz þeim ímót, gialldе slíkar bætur, sem hann hefde mót húsbóndanum þrióskaz.

Se vinnumadurinn smidur til almennelegs brúsmídis; þá tekur hann eitt hundrad í kaup og 12 ál. vadmáls. Enn ef hann er adkvæda smidur; þó er kaup-gialld hans epter sanngiaurnu accorde. Auk fyrr skrifads kaupgiallds skal húsbóndinn leyfa slíkum vinnumannnum friálsann haga fyrer hálft kúgillde, hest edur hross, hvort þeir af þessu þrennu helldur vilia, so vel þeim, sem tekur 80 ál. í kaup, sem hinum. Enn ef þetta þarf um veturinn biargar vid; skal húsbóndinn giora þad stór-mein sangalaust. Betre og lakare vinnumadur skal metaz til þiónustu launa epter ásigkomulage, sem ádur er sagt um kaupamenn.

Hvor sem vinnumadur er, þá skal hann med gódu þola húsbænda sinna ord og ávítur, sem ecke snerta æru, og minniz, hann er undergefenn, og þad hafa

hafa valld ad skipa; enn ef hann gefur þeim tráſſug ord, fare sem ſídar mæler. Sú ſkal heita **dugtug vinnukona**, er hún kann ad giora alla qvenna-þiónuſtu, ſem madur qvennmanne má ætla. Enn þad er medal-qvenna þiónuſta, ad hún ſkal á ſumardag raka hey epter tveimur ſláttu-maunnum, þeim ſem ver hauſum ádur kallad medal-ſláttu-menn; þad ſkal hún giora mille mialta, ſo lenge taudu-ſláttur varer. Enn hvad á engium mege vidlída, verdur epter lands-háttum ad ſkiliaz hæfelega, ſo ſem vegur er lángur, enge vott edur þurrt. Y vetur-ſeſſe ſkal hún vinna 12 merkur ullar á 6 daugum virkum í góda giall-da-vod og þad á mille mialta, og hafe liós þá hún vill. Herfyrerutan er hún ſkylldug til ad hallda hreinum ſkó-klædum eins edur tveggia vinnumanna, ef vidþarf, og ætle ſer til þeſſ þær ſtunder fyrer og epter mialter, ſem ei eru henne her med verk á hendur ſkilen, fremur enn fyrr ſeger. Hún ſkal árid umkríng fyrr- og ſídar vera boden og

 búen

búen til ad giøra þá alla húſſins þiónúſtu útan bæar og innan, ſem ærlegum húſ-bændum ſómer ad ſkipa. Lavn hennar ſkulu vera um árid 5 álner vadmáls, 5 ſtikur ſtriga, 1½ al. af 10 fiſka lerefte, ull í ſocka, háleiſta og vetlínga, og hafe lof húſbænda ſinna ad tæta ſiálf; og fáe þar til 10 ál. á lands-víſu. Nú er hún veſ-kona gagnleg; þá ſkal gefa henne í lavn ſín 10 ál. framyfer hitt annad, ſem ádur ſeger; enn ef hún giører kallmanns verk med ſlætte, ródre, edur torf-riſtu; þá á ad meta verk hennar ſem ádur ſeger um kallmann til ſlíkra lavna. Þad kalla menn vinnu-kvenna fæde, þegar þær heima þiggia miólkur-mat tvímælt um daginn: þá ſkal ætla vinnukonu þeirre, ſem ecke vinnur kall-manns verk, 7 merkur ſmiørs til þriggia vikna, enn ſiſt hálfu minna enn kall-maunnum. Viſtar-ſkildage er, epter ac-corde, reglulegaſt á Hallvards-meſſu, 14. Maji. Enn hafe þeir annann ſkilmála giørann; þá gillder hann ſem ſiálfum ſemur, þegar under því finnaz viel eing-en. Nú ſkedur, ſo ad bóndinn er ecke

meg-

megnande ad hallda kost vinnuhiúum, sem ádur skilur; þá skulu þav þola med haunum gott og illt, jafnt med baurnum hanns og haunum siálfum. Enn finniz þad, hann gat keypt forsorgun til húss síns, og villde ecke, þá skal hann tvígiallda þad ábrestur vinnuhiúum; hvarum hreppstiórar hafe umsión, og gefe sýsslumanne til vitundar, enn hann giøre rett yfer. Þar sem brestur ákvardad smiør og fisk, skulu vinnuhiú vera skilldug til ad neyta annars feit-metis, og í fisk-stad sol og rœtur, og alla adra æta hlute, sem brukader eru til navtnar epter landsvísu. Nú kunna þav hiú ad vera, sem nægiaz med minna fœde enn áskiled er af fiske og smiøre, og selia til annara þad yfer hefur; þá skulu þav bióda þad húsbónda sínum, og ef hann kavpa vill, skal hann betala þeim á lands-vísu; enn ef þav bióda haunum þad ei, þá hafa þav forbroted hálft verdid til fátækra, enn hitt á húsbóndinn ókeypis. Nú selia hirdulavs hiú þann klædnad, sem þav hafa af húsbændum þeged, og eru þá ecke epter verk-fær fyrer klæd-leyse;

 gange

gánge kaypid aptur; enn sá, er keypte, gialde húsbændum so miked verd, er ádur gaf hann. Hvert þad hiú, sem áſett hefur úr árs viſt ſinne ad gánga, ſkal henne uppſagt hafa annad hvert med vottum edur á einhvorium mannfundum, ecke ſídar enn á Stæ Catarinæ dag þann 25. Novembr. Ef húſbóndinn vill tergiverſera, þá ſkal hiúid uppſegia viſt ſinne vid kyrkiu, og preſturinn ſkylldugur ad teikna þad, þá gillder þad fyrer fullt. Nú er þad preſtſins hiú; þá ſkal þad þó gillda fyrer fullt ad uppſegia viſtinne vid kyrkiu. Enn ef þetta bregdz, þá er hiúid ſkylldugt ad þióna ſínum húſbónda med ſaumu koſtum í 12 mánude frá næſtkomande Hallvardsmeſſu, ef húſbóndinn vill hallda þad. Eingenn fader edur móder má taka barn ſitt úr viſt á midium misſirum fyrer utan ſtædſtu navdſýn órſakalavſt, ſem metaz ſkal af sóknar-preſte og hreppſtiórum; ella ſvare aullum þeim ſkada, ſem húſbændur hlióta þar af. So og ſkulu halldaz aull þav viſtar-ráð, ſem einn giorer ſiálfur friáls og fulltída, og forelldrar ſkulu ecke meiga þar á móte ſegia án loglegra

orſaka.

orsaka. Nú á einhvør bónde fleire full-varna sonu og dætur, enn hanns búe ber navdsyn til, enn einhvør annar innsveitis búande dánumadur getur ei vidstadiz fyrer hiúa-leyse; þá skal sá barnríke bónde liá haunum son edur dóttur med ráde sýsslumanns og hreppstióra, til slíkra lavna og adbúnadar, sem fyrr er mælt. Nú striúka hiú úr vist án loglegra orsaka, enn sá reiknaz ad vera strokenn, sem ecke hefur síns prests og húsbónda vitnisburd; þá eru þav lavsgángarar, og straffiz, sem sídar mæler, og so hvør, sem þav tekur í sitt hús til þiónustu, eins og hann hefde teked sannprófadann lavsgángara. Enn bóndinn sá sem miste hiú sitt, hafe skada sinn tvígolldinn af þeim, sem hiúid tók. Nú ef einhvør bónde rekur hiú sitt í burt um vetur navdugt, edur fyrer skildaga þeirra, og var haunum mogulegt ad biarga þeim; vere sekur vid Kónginn um 10 lód silfurs, og betale hiúinu all-ann þann skada, sem hann hefur þar af lided; og 10 lód silfurs þar á ofan. Þess-ar bætur skal sýsslumadur taka, so lenge bóndinn hefur einn skilldíng epter. Nú

ef

ef húſbóndinn vill ei hallda ſitt hiú, mañ edur qvinnu; þá ſkal hann uppſegia þvi viſtina, ecke ſídar enn á Luciæ-meſſu, 13. Decembr; giøre hann þad ei, þá er hann ſkylldugur ad hallda þad hiú eptirfarande ár, frá næſtu Hallvardsmeſſu med ſaumu koſtum ſem ádur. Allt annad um þeirra viſtar ſkilnad fare epter Norſku løgum. Hvenær ſem húſbónda miſlíkar verk ódygdugra vinnuhiúa, og þad hafa med einhvøriu móte giørt haunum ſkada edur óhlýdne; þá á húſbóndinn og húſfreyan friálſt ad ſlá ſín hiú, hvort helldur med hende, ſvipu, tág, edur ſlíkum hlutum, enn ecke ſæra ne lemſtra ad neinu. Enn ef þenarinn ſlær ſinn húſbónda, líde alvarlega húdláts refſíng í fyrſta ſiñe, og ſe allt hanns afla-fe forbroted til húſbóndans. Sláe hann ſinn húſbónda optar, gánge á Bremerholm í 12 mánude. Ef ad til ſlíkra mála-ſkorter bevíſíngar, ſem líkaſt er ad opt mege henda; þá gillda aull ærleg vitne, nema forelldrar, baurn og egen qvinna; og þá vitne þrýtur, viñe ſá málsparturinn eid fyrer dómaranum, ſem ad løgum metenn verdur trúanlegre.

Ef

Ef eitt vinnuhiú, sem þiónad hefur med dygd og hollustu saumu húsbændum lenge æfe sinnar, 15 ár edur lengur, þar til þad þrýtur burde til ad vinna ser faut og mat; þá skal húsbóndinn vera skylldugur ad forsorga þad næst konu og baurnum og forelldrum, og egniz allt þess afla fe. Eñ verde hiúid alldeilis lasburda, so þad se ómage, og hafe ecke efnada frændur, sem þad ad løgum kunne og ege fram̃ ad færa; þá egniz húsbóndinn so miked af arfa-gótse þess, sem nemur fram̃færinu. Enn tilfalle haunum æde, líkþrá edur annar þvílíkur vidurstyggelegur siúkdómur; þá skal húsbóndinn ei vera skylldugur ad annaz hiúid eptter ádursaugdu.

## 3.) Um Lavsgangara.

Þeir heita lavsgangarar, sem ecke meiga ad løgum lavser vera, enn hafa sig hvorge rádna í tveggia missera vist, og ecke þena hiá neinum vissum húsbónda, annadhvort so sem kavpamenn, hvert sem þeir í kavpavinnu hafa marga húsbændur eda fáa; edur næra sig af siáfar afla, so ad avngvum búfaustum maunnum verde þúnge af. Nú eru þeir, sem hingad

til

til hafa sig nært med þessu móte, og meiga þó ei ad løgum lavser vera med þeim skil- ordum sem fyrr er sagt, enn vilie nú láta ser segia, og ganga nú strax í tveggia missera vist med slíkum kostum, sem ádur skil- ur um vinnuhiú; þá giora þeir sig fría vid lavsgangara nafn og straff alldeilis, og seu ráðner og gengner í þá vist á næstkom- ande Maríu-messu, 15. Augusti. Enn ef þeir lengur framfara í sinne óløglegre lavsamennsku; þá heita þeir lavsgángarar sídan. Upptækur skal allur afle þeirra til helmínga skiptis, til Kongs og bænda, sem ádur er sagt um óløglega lavsamenn. Nú hafa þeir ráded sig ad hálfu í vist hiá bænd- um, og hafa ecke medaul til fullrar lavsa- mennsku; straffist á sinne hálfre lavsamenn- sku, so sem ádur er sagt um lavsamenn. Her fyrer utan eru og prackarar þeir, sem verra nafn hafa forþent, enn od heita lavs- gángarar, þad eru þeir, sem af einne sveit í adra, af einu herade í annad, í einn fiórdúng af audrum hlavpa vetur eda sum- ar, þióna um stund her edur þar einn dag, eina viku, kannske mánud, þar sem leingst er, enn þess í mille giora þad tvennt illt,

ad

ad smiſt gánga þeir ſo ſem betlarar uppá fátækann almúga, eda þeir heimta med ofdirfd hvad ſem þeim líkar af fátækum kotúnge, mat og klæde, húſ-næde edur gripa ſkipte edur gripa lán; og giora þar á ofan maurg og ſmiſleg ſkálka-paur meire edur minne, nú vid einn, nú vid annann, med hótunum og heitíngar ordum, ſo þeir eru af ſlíkum óknittum nafnkunner, ſumer í fleirum, ſumer í færre heraudum. Slíker aller ſkulu ſtrax gripner verda, hvar ſem þeir hittaz, og ſetter í járn á heimile ſýsſlumanns, þá ſkal ſýsſlumadur ſtefna ſtrax 3ia hreppa þíng, þar ſem ſlíker prackarar eru gripner, og ſkal hann á þínge krefia allann almúga ſvars og ſanninda um framferde ſlíkra manna; enn gefe þeim fángna prackara til vitundar med 8ta daga ſtefnu-freſte vitna tektina, ſem áſett er, og láte hann á þínginu vera til vidurmælis. Ef ad nú ſkorter logmæt vitne móte haunum, ſem líklegt er frá kotúnge þeim, er einn býr med konu og baurnum; þá ſkal ſýsſlumadur ranſaka, hvert bóndinn er trúverdur æru-madur, og hvor líkende hann hefur til mál-

ſins;

sins; og þar nockur eru líkinde, og bóndinn ærlegur, sverie hann áburd sinn uppá land-hlavparann, og stande þad fyrer fullt. Enn ef landhlavparinn vill andvitnum vænaz móte einhvörs áburde; þá skal sýsslumadur giora frest á eida tektinne, hallda prackarann fángenn, enn siálfur láta stefna andvitnum hanns, og ransaka málid. Nióte þá prackarinn slíkrar hamíngiu, sem haunum avdnast. Enn ef málid gengur á hann epter þessu forme, þá skal hann dæmaz á Bremerhólm í járn, og arbeide um 3ia ára tíma.

Þeir adrer lavsgángarar, sem ecke drýgia slík skálka-paur, enn eru þarfyrer utan hinum ad aullu audru líker, þeir skulu grípaz og setiaz í gabestock edur hespu, sem ádur er skrifad um óloglega lavsamenn, sem trássaz mót áminíngum þeim, er fyrr skilur. Vilie þesser ecke þarmed leidrettaz, gánge á Bremerholm í 3 ár, sem hiner adrer.

Þá sem so eru á Bremerholm dæmder, skulu sýsslumenn hvör í sinne sýsslu afhenda edur afhenda láta hinum

næsta

næsta kaupmanne; og se kaupmadur skylldugur ad taka vid haunum, og færa á Bremerhólm ásamt dómnum; vilie hann þad ecke, gialldе hann til fátækra í sveitinne 10 lód silfurs; og flyte ei ad sídur. Í **Muula sysslu** vid sió-síduna, í **Isafiardar sysslu** og **Stranda sysslu** nordare paurtum, sem ómogulegt er á vetrar-dag ad hallda 3ia hreppa þíng, gyllder þíng í þessu tilfelle af einum hrepp, þá ecke verdur fremur vidkomed; því ad í þessum her nefndum plátsum, er slíkra prackara helst von. Hvor sá bónde, sem hýser slíka lands-horna-menn óneyddur, og hylmer yfer þá, sekur, sem hañ hýse fridlausa; se hann neyddur, gefe hann sýsslumanne þad strax til vitundar, ef hann fær vidkomed. Nú er kótúngurinn, sá er hýst hefur edur hylmad slíkann prackara, felavs barna-madur, og hefur hann þó prackarann duled vísvitande viku-tíma edur lengur; misse húdina. Nú bevísaz þad, ádur nefnder órádvander prackarar hafa boded sína vist, annadhvort fátækum bændum edur nafn-

 bóta

bóta maunnum; þá gillder sú afbotun þvíeins, ad einhvor embættis=madur hafe reynt, ad slíker villdu betra sig, og ganga til hlýdne um eitt ár edur lengur. Enn þótt þeir bióditz almúga bændum, þá er intention þeirra ad drottna yfer vesælum bændum, og kannske til ad dirhgia fleire ódáder; og á þad her ad merkia, ad vilie þá eingenn í vist hallda, þá vallda því ódigder, ad eingenn vill kaupa verk þeirra med því ervide ad hallda stiórn yfer slíkum ill=maunnum; og eru þeir med því vitne sannprófader lausgángarar, under slíkt straff sem fyrr skilur. A hreppstiórnar-þínge hvort haust, og á mañtals=þínge hvort vor skal sýsslumadur og hreppstiórar hallda inqvisition, hvort slíker eru ad finna. Spyrie hreppstiórar þá upp; gefe þad sýsslumanne strax til vitundar, enn hañ án alls undandráttar giore skylldu sína, sem ádur er sagt. Um lata ódigduga kvennmenn er hid sama mál, so lenge sem þær eru verk-færar, og her innan lands heyrer þeirra mál under rett; enn þar sem

sem ádur seger, ad lavsgangarinn skule á Bremerhólm, þá skal hún í Spinnhúsid. Nú eru þeir kallmenn edur kvefimenn, sem kalla sig lasburda og setia sig í húsmennsku med nockre edur eingre málnytu; þad sem málnytu hefur, fær ad láta mylkia hana um sumarid, enn kemur henne í fódur um veturinn, þar þad getur; enn bóndanum, sem þad hýser, gelldur þad litla edur avngva þenustu, kannske 20 ál. um árid; fer siálft um sumarid um imsar sveiter ad betla, hvarmed þad giorer ecke bændunum, sem þad hýser, hina minnstu þenustu, margt af því, enn áknýr med siálf-skylldu olmusu; so þad valla leggur eitt þacklætis ord ígen; safnar so med þessu móte frá bændum í sveitinne aullu því, er þad skal um veturinn til atvinnu hafa; setz ad, þegar havstar, vid þennann afla, og hefur med þessu ríkare matfavng, enn bóndinn, sem lifer med baurnum sínum í armód; slíkt fólk skal med eingu móte lídaz; enn vera skylldugt í árs-vist hiá bændum ad ganga, med slíkum kostum, sem sýsslumadur og hreppstiórar siá því

 líkt

likt fólk megna kunna, og bóndanum þen-anlegt. Vilie þad ecke þeirra rádum hlýda, þá skal upptaka þeirra fátæk-efne, og gefa fátækum maunnum, sem búfaster eru, þess helmíng allann; fiórdúnginn eignis bónde sá, er vistar var synjad; enn hinn sídasta fiórdúng take hreppstiórar fyrer þessa inqvisition; og verde hermed þeir stoltu betlarar retter lavsgángarar, fyrer þad þeir vilia ecke vinna. Enn til þess ad Guds olmúsumaunnum verde ecke hermed meinad ad leita sér atvinnu; þá skal allt þvílíkt fólk, sem ecke getur unned sér fæde hiá bændum, gefa sig í liós á manntals-þíngum fyrer sýsslumanne; enn hann skal med hreppstióra ráde og epter vitne þíng-manna gefa þeim sedel, sem aulmusumenn álitner verda. Hvor sem ecke framber þann sedel under sýsslumanns hende med síns sóknar-prests atteste, ad hann se sannur aulmusumadur, haunum skal eingen aulmusu-beidne ne betlara-umferd leyfaz.

# Capitula Registur yfer Buua-løg.

Pag.



XI.

XXVII.

